# Fimtiu Heilagar.

# Hugvekiur/

edur Vmþeinckingar

þienande til þess ad ørua og
vpptendra þann jñra Mañen/til
sañarlegrar Gudrækne og goods
Sidferdis.

## Saman skrifadar fyrst j

Latinu/af þeim virduglega og
Hælærda Doctor heilagrar
Skriptar.

Johanne Gerhardi.

Enn a Islendsku vtlagdar af N.
Thorlake Skwla syne/ Og prent
adar a Hoolum j Hialltadal

Anno. M. DC. xxxiv.

Syrach 16. Tilreid þu vel þijna Sæl
vnder Bænena/so þu verder ecke lijkur þim
Manne /sem freistar Guds.

## Godfwsum Lesara/ oska eg Nꜳdar af Gude/ fyrer Jesū Christū

HVørsu ꝥ ad Bænen sie harla naudsynlegur Hlutur fyrer Guds Christne sem hier strijder j þessū Heime vnder Merkiū Herrans Christi/ midt j millū adskilianlegra Motlætinga/ Hættu ⁊ Hörmūga/ ꝥ bæde er ⁊ ætte ad vera öllū Guds börnū liosara ⁊ kuñugra eñ þar þyrfte mörgū ordū vm ad tala. En [mz einu orde ad seigia] þa er ꝥ hin sierlegasta nytsemd Bænareñar/ ad hū vt vegar oss hia Gude vorum himneska föd ur allt ꝥ sem vort hiarta j Truñe girnist og Guds födurleg giæska sier oss gott og skadlaust vera/ bæde vegna Lijfs ⁊ Sꜳl ar. Huar vppa fyrerheit Endurlausnar ans er so hliodande/ hia Johannem j 14 Huørs þier bidied Fødurenn j mīnu Nafne/ þad vil eg giøra / So ad Faderenn dyrkest j Synenum. et cet. Þetta hid sama fyrerheit stendr ⁊ so skri fad hart nær med sömu ordū hia Matth 7. hia Marcum 11. og Lucam 11.

Nu

Nu ſo ſiñ þ ad Barnen er einn miög ed la dyrmætur Hlutur/huör ed allar vorar naudſyniar ber fram̃ fyrer Drotten/ ⁊ til færer ⁊ flytr oſſ alla hialp ⁊ adſtod/ſo vel andlega ſem lÿkamlega af hædū himnan na/⁊ ſo ſem vr ſkaute Guds lifanda/So hæfer ⁊ einen/ad vier bænena vel vöndū og oſſ riettelega til heñar buum/ ef hu.. ſkal ſo myckils gods fra orkad/ ſo ſem ſa vÿſe Sÿrach kieñer oſſ 16. Cap. Med þeſſum Ordum

Bwdu þyna Sal vel og vandlega til/ ædur þu bidſt fyrer/ſo þu verder ecke lÿkr þm mañe ſ̄ freiſtar Guds.

Hier ſiaum vier/ad ecke eru þ allar Bæn er/ſem Gud lætur ſier þocknaſt/ Þui ſa hiñ vÿſe avÿkur hier/ad þær ſem af otil reiddu Hiarta fram̃ koma / þær ſpotte Drotten/edur ſo ſem preiſte hans / huört hann kunne Greinarmun ad giöra/a mill um þeirrar Bænar/ſem af heitre Jdran og Hiartans Andvarpan fram̃kiemur/og hinnar ſem af Vörönum alleinaſta verd ur j Jdranarleyſe ⁊ Galeyſe framhulen.

Soddann Bæner reita meir Gud til





Reide + Hefndar/eñ þad þær kuñe nöck ud gott ad vtrietta/Þar fyrer er oss vel j Ackt takande þetta gooda og holla Rꜳd Syrachs/ad tilreida og tilbwa Sꜳlena vora vel/ꜳdur enn vier bidium. Nu kann skie þu spyrier/huada Tilbwningur þad skule vera? Huar til eg suara þier med einu Orde/ Ad þad er riett og sönn JDRAN/ þui alldrei kann neirn riettelega ad bidia/vtan ein JDrande Manneskia/

Nu hefur Jdranen j sier þessa þria Hlute. Fyrst/ Hiartans Angur vegna giördrar Syndar/og sꜳra Tilfiñing til Guds Reide j giegn Syndeñe. Þar næst stadfast Trunadar Traust a þann Kross festa Jesum/vꜳntande sier obrigdanlega fyrer hans Pijnu og Dauda / Syndanna Fyrergiefningar/ epter Guds Fyrerheita hliodan. J þrid a mꜳta/Audsueipt + hlyded Hiartalag til ad vilia epter fremsta megne þocknast Drottne/ + fordast allar Synder/sem eru a mote Samviskunne/ Audsynande þad alvarlegt ad vera med Verkunum.

Þeir sem nu med soddan Vidurbwnin ge ganga til Bænarennar/ Þeirra Bæn

er

er alla reidu aꝼ Gude heyrd/ ædur eñ þr gieta Bænarorden wttalad/ so sem þar stendur hia Esaiam j 65. Capitula.

Adur eñ þr hroopa skal eg bænheyra þa/ og þa þeir eru enn ad tala/ skal eg suara þm. Enn huad sem helst vppa vantar aꝼ þessum þremur Pörtum Jdranarennar/ þad giörer Bænena Aꝼllausa/og Gude ogiedꝼellda.

Vante þann sem bidur, Hiartans Audmykt/ Angur og Trega vegna Syndanna / og Ognan og Kuijda ꝼyrer Guds strangre Reide j giegn Syndönum/þa vottar Guds Ande/ad Drottenn kunne ecke til þess Mans nie hanns Bænar ad lijta/so sem lesa ma hia Esa. 66

Til huørs skal eg lijta/vtan til hins Fatæka/og hanns sem hefur sundurknosadan Anda/z hrædest mijn ord?

Vante þann sem Bænina skal ꝼramflytia/ Trunadartraustcd a Jesu Forþienustu/þa er audvijst/ad hans Bæn er ecke alleinasta ꝼyrer Gude onyt/helldur er hun Synd/so sem Postulen Pall vottar / til

 Rom

Rom 14. Huad ſem ecke fram̄ kiem ur af Truñe/ þad er Synd/ Og til Galat. 3. Þeir (alleina) ſ̄ Truarenn ar eru/ ødlaſt Bleſſan med þeim tru ada Abraham.

Vante þann ſem bidur þad Hiartaleg ad vilia flya þær Synder frām̄veigis/ ſem hann formerker og finnur ſig ad hafa giört j moote Samviſkunne/ og hafe hann aſetning til ad halda þui fram̄/ ſm̄ hann hefur jlla og ógudlega a mote ſamviſkune vppbyriad j einn edur añan mata/ þa er omögulegt/ ad þeſſ ſama Mans Bæn kunne af Gude heyrd ad vera/ So ſem ꝫ eirnen lioſlega ma leſa hia Eſa. 1: Þo ad þier vtbreided ydar Hendur/ þa ſny eg þo miñum Augum j fra ydur/ og þo þier bidied margfalldlega/ þa heyre eg ydur ecke/ Þuiad ydar Hendur eru fullar med Blood. Blood kallar Guds Ande fyrer Munn Spamannſins allar Synder/ einkanlega þær þuerwdarlegu ſem a mote Samviſkuñe

viſkuñe

viſkunne eru / og Bloodugar hendur æ
öllum þeim ſem ecke ſo. Jdraſt / ad þeir
ꝼra þeim ſnue. Þar þuert a moote kall-
ar Poſtulen hreinar Hendur/ a öllum þm
ſem vppbyria ad læta aꝼ þui hinu jlla/ ꝛ
giöra þad eina ſem þeir kuñe ad haꝼa go
da Samviſku aꝼ ꝼyrer Gude/ſo ſem þar
ſtendur j Piſtlenum til Timoth. 2. Cap
Eg vil ad Menn bidie j øllum
ſtødum og vpphefie hreinar Hend
ur æn Reide. 2 Piſtle til Timoth. 2
ſtendur ſo/ Sa ſkilie ſig fra Rang
lætenu ſ̄ akalla vill Naꝼn Drottinſ.

Til ſoddan Jdrunar tilbunings vnder
Bænena/ veit eg ei huört margar Bæk
ur mune betur þiena einnre Einꝼalldre
Manneſkiu/enn þeſſe Bæklingur/þui hi
er verdur merkelega vtſkyrt ꝛ ꝼyrer ſioner
ſett / huad Syndenn ſie andſtyggeleg / j
ꝼyrſta Capitula þeſſarar Bokar. Hier
verdur og einnen þarum talad/ huad hũ
epter ſig leide/ſem er þann hrædelega og
ſtranga Guds Riettlætis Dom/ huör ed
obærelegur mun verda öllum Jdrunarlau

 ſum

sum/les þar vm þaun 45. Capitula. Item/vm skærd og obriotanlega Eilijfd þeirra helvijsku Bualanna/huar vm lesa ma þan̄ 49 ⁊ 50. Cap. Sa sem̄ les þessa ædurnefnda Capitula gaumgiæfelega ⁊ viknar ecke par nie glupnar j Hiarta sij nu fyrer Gude/þa ma eirn Gud vita hu ört ad hönum verdur audvelldt ad ödlast þann fyrsta Part Idranarennar sem er audmiukan/hrædda/sorgande og sundur knosadan Anda.

Huad merkelega ad Giæska Guds vid oss aumar Manneskiur/Kraptur Pijnunnar Christi og an̄ad þuilijkt/sem eirn lyrtlijfande Truarneista kann ad vppkueikia/næra ⁊ fooostra/sie hier allvijda j þessare Bok vtmaalad/þ þa þeir reynt sem þessa Bok ydka/og jduglega lesa med goodfusu og audmiuku Hiarta.

J þridialage verdur hier leidriett su Villumeining margra/ sem so þeinckia med sier/ ad þad alleina duge til sannrar Idranar ⁊ riettelegs vidurbǣnings vnd er Bænena / ef Menn gieta ad eins vm stundarsaker komed vt af Augunum einu Taare edur tueimur/ ⁊ kunne margt fag

urlega ad tala vm Endurlausnarans For
þienustu/og Guds Födurs Nææd j Syne
num og ꝼyrer Sonenn/þott hundradsinn
um hallde þeir samt aꝼram̄ j synum Syn
dum ꝛ Illsku athöꝼnum a mote Samvi
skunne/og vilia þar ecke aꝼlæta/Jæ/ lyc
ka vel þott þeir [kann skie] midt j þess
are sinne Idrunar og Trwarjdkun (eꝼ þ
ma þui Naꝼne neꝼnast) rædslage j synu
Hiarta/ huornen þeir skule þeirre edur
þeirre Illsku ꝼram̄koma / og gange so ꝼr
ar til hennar ad ꝼesku bragde/ꝛ ct. Þesse
Meining verdr hier röksamlega leidriett
ꝛ riettelega audsynt/ad alldrei er riett Tr
wa/þar sem ecke er good Samviska/ og
þui samteinger Postulenn Pææll/þetta tue
nt/Trwna og gooda Samvisku/ 1. Þist
Timotheum 1. Capitula/seigiande.

Eg bifala þier Son minn Timo-
thee ad þu fremier goodan Riddara
skap/ hafande Trwna ꝛ goda Sam-
visku/huørre sumer hafa fra sier sku
fad/og a Trwnne Skipbrot lided.
So ꝼinnast hier þar ꝼyrer margar Hiart

næmar Aminningar/vm þad ad fordast
allt þad sem Samviskuna kann ad særa
Ꞇ jdka sig j Truarennar Avöxtum/sem er
j Polennmædenne/ og Kiærleykanum til
Guds og Naungans/ef Menn vilia Rie
ttruader/ Riett jdrande / og sannarleger
Guds Tilbidiendur fundner verda. Þar
fyrer huörier sem helst þeñan Bækling
vel jdka og lesa/þeir munu j raun finna
og formerkia/ad sitt Hiarta vpptendrest
þar af/ecke sijdur til riettar Jdrunar Ꞇ
kröptugs Bæna akalls/ Enn þad ad An
de Spamannsins Elisei fordum vppvak
test til Spadoms gæfuñar/af hm sætu
Psalltara hliodum Spilarans/huar vm
lesa ma 4. Kong. bok. 3. Huad hid sa
ma eg oska ad Gud vilie framkuæma
hia sem flestum sijnum Börnum fyrer kr
öptuga verkan sijns H. Anda/huörium eg
er goodfwsan Lesara/og alla oss a
Hendur bifalande nu og til ei-
lijfrar Tijdar/ Am̄.

Thorlakur Skwla Son.

Lectori Salutem.

Mjer er til Eyrna komed / ad þar skulu nockrer Larder og skarpsinuger Menn/ sem sig steyta a þeirre Grein/ er hier stendur skrifud j þessare Bok/ j 3. Hugvek iu/og er so hliodande. Synden er j raun ad reikna so stoor/so sem sa er/ sm hu er a mote drygd z brote. Nu er Gud (a moote huorium allar Synder eru giørdar)so stor/ad Him en og Jørd fa han ecke jnnelucktan. Hier vt af er sagt/ ad nockrer eige so ad disputera/ z. seigia. Være syn de so stor z Gud/ þa være hun ofyrer giefanleg. Þar a moote truum vier ad sa minste Guds Sonar vthelltur Blood Drope/sie dyrmætare z stærre ad verdugleika / en allar Veralldar efnar Synder: Þar fyrer synest þad

ad

ad vera ſtor Gudløſtun/ad ſeigia ſyn
den ſie ſo ſtor ſem Gud/ſem hün er a
mote giørd. Nu þo eg þurfe ecke
hier til ødru ad ſuara / enn ad vñſa
þeim ſem þuilÿkt bullta/ til þeſſ lof
lega z hæilærda Doctors ſialfs/ſem
þeſſe Ord hefur j ſÿna Bok jnnſett/
epter huørs eigenlegum Ordum/ eg
hefe adur ſagda Grein vtlagt/ Þa
vil eg þo einfalldlega j lioſe læta/ j
huørre meiningu ſu grein eige ad ſkil
iaſt. Fyrſt tok vor goode Doctor
ſier þad alldrei fyrer Hendur/ ad be
vñſa/ad Synden være ſo ſtoor/ad hū
være þſſ vegna ofyrergiefanleg/hell
dur hitt ad hañ vill ſem næſt komaſt
ad ſyna huad mÿkel z ſtor Illſka ad
ſie j Syndeñe/ſo vier lærum ad hrad
aſt og fordaſt hana þſſ helldur/ Eñ
ſtærd Syndareñar ſyner hañ med þſ
ſu moote ſeigiande. Ad þeſſ ſtærre z
ypparleg

ypparlegre ſem ſa er/ ſem mote var
giørt/ þeſſ ſtærra ſie Broted. Til dæ
mis ad taka/ Sie einum ſliettū man
ne misþyrmt/ þa er þ noogu ſtor A-
virding fyrer ſig/ eñ verde fyrer þm
Oſkunda eiñ ypparlegre og oſſ ædre
Madur/ þa er Avirdingen þeſſ mei
re/ Eñ ſie þad eiñ Kongur edr Kei
ſare ſem fyrer ſlyku verdur/ þa er ſøk
en aldra ſtæſt. Huørnen kiemur ſlykt
til? Þad kiemur ſo til/ ad Miſgiør
ninguren verdur epter þui ſtor meten
ſem ſa er myklels vmkomen/ ſem mis
giørt var vid. J ſoddan Meiningu
ſeiger vor goode Gerhardus/ ad Syn
den meigie ſo ſtor reiknaſt ſem Gud
a mote huørium hū er drygd/ þad er
ad Syndeñ a mote Gude ſie þeim
Mun ſtærre/ øllu þui oſſ averdr vid
Meñena/ ſem Gud er Møñunū æd
re/ z kn eg j þeſſare Meiningu øng
ua

gna Gudløstun ad sia. J annan Mata/er pad athugande/ad i þessa re Bok stendur ecke skrifad/ad Synd Mañañia sie j sialfre sier so stor sem Gud/ edr j allan mata hønum jafn stor/slijk atridisord skulu hier alldrei sinast. Med pui Synden hefur sinn Vppruna hia Dioflenum z Mañe num af huørium bædū hun er j hei men jñleidd/þa kañ hun j sialfre sier ecke jafn stor ad vera slalfum Gude puiad Menn og Dioflar med øllum sijnum verkum og Tilfellum (lijka vel Syndenne) eru endanleger Nlu ter/eñ Gud er oendanlegur Nlutur. Þui kañ synden j þeñan mata/ecke jafnstoor ad vera sem Gud/huar vm Gerhardus vott" so j vj. Augvekiu. So mykla Yferburde/sem Gud hefr yfer synduga Mañskiepnu/so mykled hefur z Giæskan Herrans Christi/ yfer mijna jllsku. Distingve igitur

inter Peccatum, per se, & in se consideratum: Et idem, respectu Dei consideratum, quem offendit. Atque ita facilem habebis Solutionem.

Þike nøkrum þurfa/hier meire Grein á ad giøra/skal eg giarnan epter mijnum veykū mætte/til reidu vera. enn þad munde vissulega DOCT. JOHAN. GERHARD. hafa þott Fyrersøgn/hefde hønū sagt vered/ad hier j Lande giørdust nu svo Lærder Menn/sem þættust geta byggsad hønum uppa/Gudløstun j hans Bokum/hu ad aller adrer hans Mootstødumenn/hafa hingad til Dags ecke getad vnned/huøriet eg meina þo ecke minne sydur ad sier j Lærdomenum/enn vorer Lands Menn. Enn ò skande er ad þad ætte ecke heima hia oss sem þar stendur j Pistle hins Heilaga Judæ Postula/

# Þesser lasta/þar þeir eckert af vita.

VALE

Thorlakur Skwla Son.

## ERRATA

D. Folio 4. Pagina 1. himneste/ les him neske.
J. Fol. 3. Pag. 1. Fioßgun les Frioßgun/
M. Fol 6. Pag. 1. ovmrädelga les ovm rædelga.
R. Fol: 6. Pag. 1. byna Helaga Eing la/ les syna.
V. Fol. 3. P. 1. byerheited les byrerheited
Bb. Fol. 4. Pag. 2. setur/les sete:
Cc. Fol. 3. Pag: 1. Frestingarner/les Fre istingarnar.
Ec. Fol. 1. Pag: 2. hætte/ les hætere.



# I Hugvekia

## Um Rietta og sanna Þecking Syndaña.

Þu Heilage Herra / og Riettlaate Domare / Mier eru all tijd fyrer Hugskots Sionum mijnar Synder. Og eg hugsa á huørium Deige / um þinn stranga Riettlætis Dom / Þui Daudenn hanger mier yfer Høfde / jafnan a huørre Stundu. Eg hyxa um þann stranga Riettlætis Dom / a huørium Deige / Þuiad Menn munu verda ad standa Reikningskap / af øllu þui sem þeir hafa ad hafst a huørium Deige. Þegar eg ransaka mitt Lijferne / og Framferde / þa fiñ eg j



Sañ

sañjeika/ad þad er añadhuørt ønytt
edur og so Oguðlegt. Aunguu Ny
tar eru margar mijnar synder og At
hafner/ Þo eru enn fleire mijn Ord
og Muñrædur ønguu nytar/ Enn
allra flest er ønguu nytt af mijnum
Þønkum z Hugrenningum. Jæ/
mitt Lijferne og Framferde (so sem
eg strax sagde) er ecke alleinasta øng
uø nytt/ helldur og eirnen jllt z ogud
legt. J þui finn eg eckert gott/ Þui
ad Þo so sie/ ad þar j meige synast nø
ckud gott/ þa er þad þo j Raun og
Sannleika huørke gott ne fullkom
legt/ Þuiad þad er allt fleckad og for
diarfad/ af Saurgun Uppruna
Syndarennar/ og spilltrar Natturu
Eg ottadest þui øll mijn Verk/ ad
eg vissе þu þyrmder ecke þm ē synd
ga/ sagde hinn H. Job. Nu ef sa
Riettlæte Guds Madur klagar so
huad

Nuad skyllde eg þa ogudlegur meiga klaga/yfer mijnum Verkū z Fram̄ ferde? Allt vort Riettlæte/er so sem saurugt Klade blodsiukrar Kuinnu/ Nu ef Riettlæte voru er ei ødruvijs hattad/z þ er so andstyggelegt z ohr eint/ Nuad meinar þu. þa christenn Sæl ad mune vera vort Ranglæte z Synder? Þott þier giørdud allt þ sem ydur er boded/seiger vor Endur lausnare/ Þa seiged/ Vier erum onyt er þrælar. Nu ef vier erum onyter j þui/ þa vier berum oss ad hlyda Or otne/ Nuad munum vier þa vera suij virdeleger þegar vier yferfrodum/og forøcktum hans bod og Befalning ar? Þad fyrst eg er þier skylldugur vm Lijf z Sæl/z alla Dyrkan/sem þad huørttueggia kann þier ad gial da/og j fram̄e ad læta/huad hef eg þa epter/þad eg kunne þier ad bita

la þ myñar Synder? Þau vor vk s
þ vorũ dõe synast ad va riettlæt/ Þau
eru ei añad eñ Synd ad reikna/skyll
du þau berast samã vid Guds Riett
læte/ Ett elldlegt Lios/ synest skiært
lioma j Myrkrunũ/ Eñ ef þ er wt
bored j Solareñar geisla/ þa misser
þ allan siñ Lioma/ Og so s formyrk
uast. Opt synest pad trie/ad vera ke
iprieft/ sem eptera sannproofast ba
de ad vera boged/ z hlyckiott/ Þegar
Mæleþræduren er vid þad borenn.
So eins lyka synest eirn smydsgrt
pur opt fullkomen fyrer þeirra Aug
um sem hann skoda/ þar þo Smidur
en sier vel/ad hann er j mørgu ofull
komen z obwen. Eins lyka er þad
margt einkisvert fyrer riettu Alite
þess adska Domarans / sem Menn
sialfer virda miøg heilaglegt Verck
ad vera. Þuiad Guds Domur og
Mann

Mannaña/ eru miøg olyker.

Mier siendur ogn af mørgũ Syndum / sem eg man mig hafa giørt. Enn þo eru hinar adrar eñ þo langtum fleire/ til huørra eg eckert man og af huørium eg eckert veit. Huør kann ad kannast vid þad/huørsu opt hañ syndgar? Af mĩnum heimuglegum z ovitanlegum Syndum/frelsa þu mig Drottenn, Eg þore ecke ad rpplypta mĩnum Augũ til Himensins / Af þui ad eg hefe styggt þann/sem a Himnum byr og drottnar. Eg fiñ eckert skiol nie Hæle hier a Jørdufie/Þui ecke er von neinnrar Vinættu/nie Skiols hia Skiepnunum/ Þad fyrst ad Skiepnanna Herra z Drottenn er af mier styggdur z modgadur. Miñ Ovinur Diofullenn/klagar mig þ̃ Gude a þeñan hætt/seigiãde. Þu Riettlætaste Do

mare/dæmdu hañ ad vera mĳna Ei
gn/epter ſiñe verdſkulldan/mz þui hñ
villde ecke vera þĳn eign/ epter þiñe
fram̃bodeñe Ræd z Myſkun. Nañ
hefur þier ædur tilheyrt/vegna þeſſ
þu hefur hann ſkapad / Enn mier
heyrer hann nu til vegna þeſſ hann
hefur læted ſier þocknaſt ad fremia
mĳn Verk. Nañ var þinn/þui þu
endurkeypter hañ/med þĳnum Dau
da og Pĳnu/Enn minn er hann nu
orden / af þui hañ hefur mier hlyd
ugre vered/eñ þier. Nañ fieck af þi
er Rietlætiſins z ſakleyſiſins ſkrwda
Enn hønum hefur hann burtkaſtad
og teked j ſtaden / af mier þeſſa ſuĳ
virdilega Flĳk/ ogudlegs framferdis
Siadu hañ kiemur ecke fram̃ fyrer
þig j þeim fagra Skrwda/ ſem þu
hefur hønum feinged/Þar ꝥ er riett
vĳſaſt þu dæmer hann mier til han
da/

da/og til eilıfra Kuala med mier ꝫ
ødrum Fortøpudum.

Nier ad auk aklaga mig allar Høfudſkiepnurnar/ Nimenen ſeiger/ Eg hefe lyſt þier/ſo þu hefur mætt hafa þyna vnun þar af. Lopted ſeiger/ Eg hefe giefed þier allra han da ſlags Fugla/ ſ̄ þier ſkylldu þiena Vatned og Sioren ſeiger / Eg hef giefed þier allra hāda Fiſkakyn þier til Fædis. Jørden ſeiger/ Eg hefe giefed þier Korn og Vijn/ Mat og Dryck/ þier til Atvinnu og Foſturs Eñ allt þta hefur þu brwkad til for ꝍcktunar vid vorn Skapara/ þar ꝥ ſkyllde allꝫ ſa Goode ſ̄ þu hefꝫ af oſſ þeiged/ ſnuaſt þier til ſtraffs ꝫ kuala. Elldurē ſeigr/eg vil þig vp̄brēna Vatned ſeigr/eg vil þier dreckia/ꝫct

Mig aklaga Neiláger Einglar ſ̄ Gud hefur mier giefed til Þion

ustu j þessu Lijfe / Og til Sambwd ar og elskulegrar vmgeingne/ j þui o komnu Lijfenu. Þuiad eg hefe med mijnum Syndum broted af mier/ bæ de þeirra þionustu hier j þessu Lijfe so og lijka þa Von sem eg hafde til þeirra samveru og vmgeingne j þui okomna Lijfenu. Mig æklagar hi er ofan æ/ eigenlegt sialfs Lifanda Guds Ord/ sem ad er hans heilaga Løgmal/ huørt ad vtheimter/ ad eg skule afiadhuørt/allt þad giøra/ sem þar jnne stendur skrifad/ edur og so fyrerfarast ad eilijfu. Nu er mier omøgulegt Løgmaled vpp ad fylla enn obærelegt ad eilijfu ad glatast. Mig æklagar lokssins sialfur Gud sa strangaste Domare/ huør ad sijnu Løgmale hid allra alvarlegast / og streingelegast framfylger. Þeñan Domaran kann eg ecke ad viela mz

ne:rn

neirnre fegrun miña Mælefna/ þui hñ er sialfur Vijsdomuren. Vndan hans Doms alyktan kañ eg huør ge ad flya/ þui hañ er pad Almættis vellde/sem rijker j øllum ættum. Nu ørt skal eg þa flya? Nuørt skal eg þa skiols z Nælis leita? Til þijn all eina þu æstwdlege / og Giæskufulle Jesu/miñ einaste Endurlausnare z Sæluhialpare. Miklar z storar eru mijnar Synder/z pad er vijst/Enn myklu stærre er su boot/sm̃ þu vanst a þeim med þiñe Forþienustu/Mijñ ed er ad søku mitt Ranglæte/eñ lan gtum stærra er þitt Riettlæte. Vid þetta mitt Ranglæte kañast eg/Vir stu þess þui ecke vid mig ad minn ast. Eg dyl þui ecke/þar fyrer læt þ fyrer þijnu Auglite faled. J hiæ mier finst eckert annad enn pad sem mig kñ ad fordæma/J hiæ þi' finst

 eckert

eckert annad enn þad sem mig kañ Sæluhølpen ad giøra. Margt hef eg þad framed/huar fyrer eg mætte med øllum Riette vera fordæmdur/ Enn samt hefur þu ecke þar fyrer mist þa Naad og Giæsku / vtaf hu ørre þu kuñer mig aptur hølpen ad giøra. J Salomonis Lofkuæde sten dur/ Ad eg skule fela mig j Biarg skorunum. Þu sialfur ert þta Hellu biarg / enn Biargskoruñar erū þijn Saar og Vnder/ J þeim skal eg fela mig fyrer aklǫgun allra Skiepna. Mijnar Synder hroopa vijst vpp j Himenen/ enn langtum hærra hroo par þitt Heilaga Blod sem er vthe llt fyrer mijnar Synder. Krøptugar eru mijnar synder til ad aklaga mig fyrer Gude / enn Þushund sinnum Krøptugre / er þijn Saara og Bit ra Þijna til ad afsaka mig j hanns
Aug

Auglite. Mÿked megn hefur myn illſkufull Breytne/ til ad fordæma/ Eñ myklu meir orkar þo þitt allra helgaſta Frammferde / til ad giøra mig ſæluholpen. Eg appeliera mitt Mæl fra Riettlætis Domſtolnum/ z inn fyrer Nædarſtolen / Og ecke vil eg añars fyrer Domenum ſtanda vtan eg meige þar þyna Forþienu ſtu og Fullnægiu fyrer mig bera.

## II

## Vppuakning til Jdrunar vt af vmþeinkingu og Jhugan Christi Pynu.

HVgleid og athuga Sæla myn / þær bitru og Beiſku Kualer þyns Endurlanſuara / ſem fyrer þig a Kroſſenum pyneſt. At huga hanns ſundur ſlocktu Sær/ þar

þar hann hanger/ og hans Ofraun
þar hann Ondena vppgiefur. Pad
Signada Nøfuded/fyrer huøriu sig
audmykia og lýtelæcka þeir Volld
ugu Himnesku Andar/verdur j sund
ur rifed og krassad med Þyrnanna
Broddum. Pad signada Andltied /
sem ber Frijdleik langt yfer alla ad
ra Mañaña Sonu/verdur mz hræk
um ogudlegra skælka saurgad/z suñ
virt. Pau Blessudu Augū sem skiær
are eru eñ Solen/formyrkvast/z miſ
sa sijna Sion/ Andlætenu. Þau all
ra helgustu Eyrun / sem hlyda eiga
til Einglaña Packargiørda/ z Lof
saungua/verda ad heyra vppa ogud
legra Syndara Spott z brijxlyrde.
Sa Signade Munnuren sem predi
kar vt af Guds Lærndardomum/ og
Einglonum kienner/ verdur hier ad
drecka Gall og Edik. Þeir Bless
vdu

udu Fæturnet/ fyrer huørra Fotskor vier frammføllum/og giørum vorar Bæner/ þeir verda med Nøglum nid urfester. Þær blessudu Hendur/ s̄ hafa Himnana wtþaned / verda a Krossenum vtþandar. Sa allra hel gaste Lijkame/sem er þad allra hrein asta z osleckadasta Herberge z Bu stadz Guddomsins/verdur med Suip um sleigen/z med Spiote j giegnum lagdur/ Ja/hn̄ gat ecke hrært/neirn lid eda lim/ vtan alleina sijna Bless ada Tungu/nz huørre hann bad p̄ þeim/sem hañ krossfestu.

Hann sem med Fødurnum stiorn ar og rijker / hann er a Krossenum miøg hørmulega vtleiken af Synd ugum Mønnum. Gud lijdur hier forsmanarlega Pijnu. Gud sialfur vtheller hier sijnu Blode. Af stærd þessa Bitalingsins ma ræda j huør

 rc

re og huilijkre Nætta / ad vier aum ar Manneskiur/ høfum vered stadd ar. Af so dyrmætre/ z mijked kostāde læfningu ma sia/ huad hættelegt ad hafe vered vor Siukdomur. Stoor hafa þau Særen vered/ ſ ecke kun nu ad læknast / vtan med Sarum þess Lijfkrøptuga Nolldsins Jesu Christi. Þad hefur ad sønnu vered þungt Krankdæme/ vid huøriu/ ecke ert annad atte/ eñ alleinasta Daude Læknarans.

Athuga med þier þu christen Saal þa brennande heiptar Reide Guds j giegn Syndenne. Guds eilijfur z elskulegur Sonur bad Fødurenn fyr er oss/ epter þad vorer fyrstu Foreldrar høfdu syndgast/ Ecke kunne enn þa ad riena hans Reide. Sa hinn same giørdest Medalgāgare vor hia Fødurnum/ fyrer huørn hañ hafde

Himenen

Himenen skapad/ Enn ecke kune þar med ad riena hans Reide. Endurlausnarenn jklæddest manndomlegu Hollde/ so ad hañ meddeillde þui guddomsins Dyrd og Vegsemd/ og vpp a þad/ ad su mañdomlega Natturā helgadest þar af / og ad su eitrada Syndanna soott/ vtdryfest wr voru Hollde/ med þeim sterka Læknisdom fyllelegs Riettlætis/ huørt þa v" ord ed samteingt voru hollde/ Ecke kunne enn þa þar med ad stillast Fødur sins Reide. Endurlausnaren hlaut ad taka vppa sialfann sig allar vorar Synder/ og so allt þ straff/ sem þar hafdu forskulldad/ Þar þ̄ lætur hann binda sinn blessada Lykama/ Hann lætur sla hañ/ Særa hañ/ Stinga hann/ Krossfesta/ Deyda hañ/ og nidurleggia hañ j Grøfena. Blo ded reñur/ dynur z drypur/ wtaf øll

um

um Lidum og Limum Herrans Chr
isti/wt af Ofraun Dynunar. Nu s
allra helgasta Sæl hryggest wr ma
ta/Ja/ hun hryggest allt til Dauda
og hñur til helvijskra Kuala. Sa ei
lijfe Sonur Guds/verdur ad hroopa
z klaga þar yfer ad hañ sie yfergie
fen/af sijnum Himneska Fødur.
So akaflega sueittest hañ Blodenu
og j so storre Hiartans Angist z hr
ellingu var hañ staddur/ad hañ vard
ad þiggia styrk og Huggun/ af ein
um Eingle / hañ sem þo hughreyst
er z styrker alla Eingla. Ja/hann
sem ad øllum Lifande skiepnum gief
ur Lijfed/verdur ad deya. Ef þet
ta skiedur vid þad græna Tried/ hu
ad mun þa skie vid þad visnada? Ko
me slijk hefnd fram vid þañ Heila
ga/og Riettlæta/ huad mun þa skie
vid þañ syndruga? Huad hart mun
sa

ſa ſtraffa þa enu Ranglætu / fyrer
þeirra eigen ſynder/ ſem ſo hart tek
ur vppa þann Riettlæta fyrer ann
arlegar Miſgiørdeir? Eda huørnen
ſkyllde hann kunna ad lijda þad/ vid
Þrælana/ ſem hann ſtraffar/ Sonen
fyrer ſo Vægdar lauſt? Huad mein
ar þu þa/ þr munu eiga ꝥ Nøndum
ē hn̄ alldeilis fra ſier wtſt wfar þar
ſæ lijdur ſo þungar Kualer/ ē hann
hefur ſier allra kiæraſtan ? Ef ad
chriſtur ſlapp ecke fyrer vtan ſtraff
ſm̄ þo kom fyrer vtan Synd/ Huad
myckels Straffs eru þa hiner verd
er þeir ſem koma med Syndenne/ j
Heimen/ lifa j Syndenne/ og deya
burt j Syndenne? O huad
ſtor Neimſka er þad/ ad Þrællen er
ofkætur/ þar ad Sonuren lijdur hn̄s
vegna/ ſo hardar Hefnder? Er þad
tilheyrelegt ad Þrællen auke ſynd a

Synd ofann/ z ſ leike ſier ad Rang
latenu/ þar Synenū verdur ſo þūg
ſockt ad gieta mykt/ og ſtillt Fødur
ſins Reide? O huad Oendanleg er
Guds Reide? O huad ovmrædeleg
er hanns Bræde? O huad oranſak
anlega ſtrangt er hans Riettlæte?
Sa ſem ſo hrædelega refſar/ ſijnum
Elſkulegum og eingietnum Syne/
ecke fyrer neina hans eigenn Søk/
helldur alleina þar fyrer/ad hañ vill
frija prælé/huad meinar þu hñ mūe
þa giora vid Prælen/ſm̄ vggalauſt
z ottalauſt leikur ſier ad ſijnū Synd
um z Illſku/og lætur ecke af? Vel
være til falled þo Prællenn af. Ot
ta ſkilſe z titrade / og yrde hryggur
vegna ſiña forþientu Launa / þar
Sonuren verdur ſo hart ſtraffadur
hans vegna/huør þo til einſkis Ills
hef z vñed. Vel er til falled þo præll
enn

enn ſtielfeſt/og hrædeſt/ ſa ſem ecke
lætur af ad miſgiora/ Þar Sonur
enn lijdur ſo margt og mijked fyrer
Syndernar. Vel ma Skiepnan ve
ra hrædd/ ꝫ kroſſeſt hefur ſiñ Skap
ara. Vel ma Þrællenn vera Otta
ſleigen/ z vggande vm ſig/ſa ꝫ deydt
hefur ſiñ eigen Herra. Vel mæ ſa
Synduge z ogudlege / vera ottaſlei
gen/ſa ſem Þann Bleſſada og Hei
laga ſo Þiade. Nu vel Elſkuleger
Brædur/ lætum oſſ heyra ꝥ hañ til
vor hropar. Lætũ oſſ giæta ad huad
hann oſſ grætande ſeiger. Hugleid
Þu Madur(ſeiger hann)huad eg lijd
fyrer Þig/ z Þinna vegna. Til Þijn
hroopa eg/ Þuiad Þinna vegna lijd
eg. Siadu Þad Straff ſem eg Þo
le. Siadu Þa nagla/ med huorium
mitt Holld verdur j giegnum grafed
Mun nockur Pijſl ſo ſtor/ad lijkiaſt

 meige

meige/ vid þeſſa Pijnu ſ̄ eg lyd. Og þo ad ſu ytre Kuølen ligge ſært æ/ þa liggur þo langtum ſærara æ mi er ſu iñre Sorgen/ ſem kiemur þar af/ad eg fiñ og formerke ad þu ert ſo opacklætur fyrer allt þetta.

Myſkuna þu oſſ. Myſkuna þu oſſ hiñ einaſte Myſkunſemdaña Herra og ſnu þu vorum Steinhiørtum til þijn/ Amen.

## III
## Um Avøgſt riettrar og ſañrar Idrunar.

RJett og ſønn Idran er Grundvøllr z vp̄haf þſſ eilijfa Lijfs/ þt huar ſad er ſøñ Idrā/ þar er z ꝑgiefning Synd aña / Eñ þar ſ̄ er ꝑgiefning Syn daña/ þar er Gudz wingā/ Eñn þar

ſem

ð Guds Vingā og Vinætta er/ þar er Christur/ þar ð Christur er/ þar er hans Forþienusta/ þar sem̄ Christi Forþienusta er/ þar er anægelegt Bitalingt fyrer Syndernar/ þar ð ad er fullnægiu Bitalingt/ fyrer syndernar/ þar er Riettlæted/ þar sem Riettlæted er/ þar er glød og Roßom Samuiska/ þar sem er glød z roßom Samuiska/ þar er Heilagur Ande/ Huar heilagur Ande er/ þar er su guddomlega þreñing/ þar su Blessada Guddomsins þreñing er/ þar er og eirnen eilijft Lijf. Huar fyrer ad þar ð riett z soñ Jdrā er/ þar er og eirnen eilijft Lijf. þar þuert a mote/ þar sem ecke er riett og sonn Jdran/ þar er og ecke helldur Synd aña Fyrergiefning/ ecke Guds Vinætta/ Ecke sialfur Christur/ Ecke christi Forþienusta/ Ecke Fullnægia

 nein

nein fyrer Syndernar / Ecke Riett
læted/ eige god nie rosøm Samvisska
ecke heilagur Ande / ecke heiløg Jr
enning/ og ecke helldur eilijft Lijf.
O huad blinder erum vier þa/ad vi
er drøgum vndan vora Jdrun/ Þui
skulū vier skiota heñe a frest til mor
gūs? hũke morgūdagurẽ/ z ei helldur
Jdrunen er j voru valldе / z þui ætt
um vier ad taka þ huørttueggia med
an þad giefst. Þar kiemur/ad vier
verdum fyrer Domenum Reikning
skap ad standa/ ecke alleinasta fyrer
epterkomandi Dagen/edur Morgun
dagen/helldur og eirnen fyrer þann
Dag sem j Dag er. Ecke er neinū
þad so vijst/ad hañ mune til Morg
vns lifa/so sem þad er vijst ad þeim
agudlega er Fyrerdæmingen fyrerbw
en. Gud hefur fyrerheited þm Syn
danna Fyrergiefningu sem jdradest
eñ

eñ þad/ad þeir skylldu lifa til morg
uns/þui hefur hañ þeim ecke fyrer
heited. Ecke heyrer þeim til Christi
Fullnægia/sem ecke hafa sañarlegt
Angur z Trega j Hiartanu vegna
Syndaña. Vorar Synder skilia æ
mille Guds z vor(seiger hiñ heilage
Esaias Spamadur) Eñ fyrer Jd
runena snyr Mañskiepnan aptur/z
nalæger sig Gude vppa nytt. Siæ
til ad þu þecker þijna Synd/og læt
er þig hana af Hiarta angra / þa
muntu visselega fiña ad Gud er þier
nædugur fyrer Christum.

Eg vtskief edr vtsliette þijnar
Synder/seiger Drottenn. Þar af er
ad merkia/ad þær hafa ædur vered
vppskrifadar j þeirre himnesku Ræd
stofuñe/þad fyrst þær verda vtdreg
nar/edur ad nyu vtskafnar. Snu þu
nu Andlite fra mijnum Syndū/ seig

er Spamadurē David/Þar af er ad
merkia ad Gud lijtur til Syndaña z
giefur gaum ad þm/so ad þñ straffe
þær fyrer sijnu Auglite. Snudu
aptur til vor seiger hiñ heilage Moy
ses. Þar af er ad merkia/ ad Synd
ernar snua Gude frá Mønnonum/z
skilia so ad Gud og Menn. Vorar
Synder andsuørudu oss / seiger hiñ
H. Esaias / Þar af siaum vær ad
þær klaga oss fyrer Riettlatis Dom
stole Guds lifanda. Hreinsa þu mig
af mijnum Syndum/ seiger David/
Þar af ma merkia/ad syndern" eru
sa andskyggelegaste saurleike j Gu
ds Auglite. Lækna þu mijna Ønd
þuiad eg hefe syndgad á mote þier
seiger og David j ødrum stad. Hier
af ma sia ad Synden er eitt skadsät
og þungt Krankdæme Sælarenn
ar. Huørn sē syndgar j mote nær
þann

þañ skal eg wtskafa af minne Bok seiger Endurlausnaren. Hier af er ad merkia/ ad vegna Syndarennar verda Menn wtskafner / af Lijfs Bokenne. Vtsnara mier ecke fra þijnu Auglite / seiger Davijd/ Þar af ma sia ad Syndernar fæ þui orkad/ad Madur verdur þeirra vegna wtskwfadur fra Guds Aug lite. Tak ecke þinn heilaga Anda fra mier / seiger Davijd j sama Ps alme/ Hier wt af er ad merkia og skilia/ Ad med Syndonum verdur sa Heilage Ande wtreken af voru Hiartans herberge z Mustere/Ja/ heilagur Ande verdur eins j burt sky gdur med Syndonum/so sm̃ þad ad Byflugurnar verda j burtu drifnar med Reyknum/z Dwfurnar med jll um daun, Gief mier aptur Glede þijns Hialprædis seiger David/Þar

af ſiaum vier ad Syndernar giøra
Hugſkoted hrygt/ z taka j burt alla
Hiartans hugſuølun. Landed er ſau
rgad af þeim ſem j þui bwa/ huør
ter ed brioſta Gudz løgmaal/ſeiger E
ſaias Spamadur. Þar af ma merk
ia/ad ſynden er ſo ſem eitt næmt Ei
tur/ſm̄ ſnarlega z hættelega kañ ad
ſpilla og fordiarfa øllu þui ſem ha
na ſnerter. Af Diupenu hroopa eg
til þñ Drotten/ſeiger Davijd/med
huørium Ordum hann vill kieña/ad
ſynder z leſter nidurſøckue Mañeſk
iuñe allt til Helvijtis.            Vier
vorum fordum dauder j vorum Syn
dū/ſeiger Poſtulen/Er þa ecke aud
ſkiled/af þm̄ Ordum/ad Synden er
einn andlegur Daude Sælareñar?
Med ſialfviliaulegum Syndum ſm̄
Madr giører þuert a mote Samvi
ſkuñe/þa miſſer hañ Gud ſiñ Skap
ara

ara. Nu er Gud eilyfur z oransak
anlegur Gode/huad er þa añad ad
syndga z missa þañ Eilyfa Gooda
eñ ad taka j staden eilyfa oransak
anlega Eymd z ogiæfu? So s̄ Gud
er sa allra beste z agiætaste hlutr inz
al alls þss s̄ Nafn hefr/so er Synd
eñ sa allra verste z andstyggelegaste
sem nefnast kañ. Kross z Motgang
ur er ecke jllt j sialfum sier/j Raū z
sañleika/þui hñ leidr eptr sig margt
gott. Ad Kross og Motgangur sie
eirn godr Hlutur/ þad bevÿsast þar
af/ad hañ kiemur fra Drottne/ fra
huøriū ecke kañ ad koma nema gott
þui hann sialfur er su ædsta Giæska
z goode/Kross z Motgangur ætte
heima hia christo/so leinge s̄ hñ vm
gieckst j þssu lÿfe/nu er þ audvijst
ad eckert þ sem j Raun z sañleika
er j sialfu sier jllt/Eñ ad eiga heima
hia

hia þeim besta Herranum/huoriu… oll Giæska er eigêleg. Kross z Mot gangur leider og eirnen Mañen til eilijfra Giæda/þad er til eilijfs Lijfs z þui kañ hañ j Sannleika ecke jll ur ad kallast. þ Kuol/z Pijnu/edur so sem j gtegnum Kuol z Pijnu/þa jñgieck christur j sijna Dyrd. Eins lijka jñganga z þeir hinu Christnu til þess eilijfa Lijfsins j gtegnum ad skiltanlegar Eymder z Hørmungar

Þu fyrer er eingen hlutur so jllur z vondur sem Synden/huør ed dregur Mañesskiuna fra þeim allra ædsta gooda/s er fra heñar Gude z Skap ara. Þess meir sem þu nalgast Gud þss leingra ertu j burt fra Syndeñe z þess nær sem þu ert Syndeñe/þess fiær ertu Gude.

O huad heilsusamlegur z ógiætur hlutz er þar þ Jdruñe/huør ad leider

og dregur aptur fra Syndeñe og til Guds lifanda? Synden er j Raun ad reikna so stor/so sem sa er ã hun er a mote drygd og broten. Nu vitn ast so vm Gud/ a mote huørium all ar Synder verda framd'/ad Himen og Jord/fae hann ecke jñeluckt ann Nuad ognarleg ma þa vera Stærd Syndareñar? Enn allt vm þad/þa er Jdrunen so stor/ad þa hun skygg er a Syndern'/þa kuñ a þær ecke ad verda siedar leingur af Gude.

Þañ hiñ Synduga aklag' Sam vitskan/ huøria hañ hefur saurgad/ Skaparen hön hañ hefur modgad/ Søken/a mote huørre hñ kann ecke ad þræta /og Skiepnur Guds med huøriar hann hefur jlla og oriette lega fared/Ja/Einglar Gudz ã hñ hefr fra sier fælt so tiþdt/z Diøfullé huørs vilia z aeggiñ hñ hefr hlydt.

O huad nytsamlegur z heilsusam legt hlutur er þa þar fyrer Jdranen sem ad oß frijar fra so storū z hætte legū Kiærumælum z Akløgunum? Kapkostum þar fyrer j Jesu Nafne kapkostū ad na so dyrmætū z krøpt ugum Læknisdom/þ͛ so skadnæmre z banvænnre sott Syndarenar. Nuør sem giører ecke fyrre Jdran enn j sialfum Daudanum/hañ yfergiefur ecke sialfur Syndena / helldur yfer giefur Synden hañ/ þui hann kann valla leingt ad syndga/þo villde. Þ͛ finst valla neitt Dæme ad neirn ha fe giørt saña Jdran/sem eige hefur teked sig til ad ydrast fyrre enn midt j siñū Dauda z andlæts stūdu/vtā alleina Ræningians a Krossenum.

Eg hefe þienad þier j fiortā ar og þui er nu Tijmen tilkomen ad eg huxe vm þ͛ sialfū mier z mīnu huse

sagde

sagde hin̄ Heilage Jacob Forfader
vid Mag sin̄ Laban. Hafer þu nu
þionad þessum Heime j/ so langann
Tijma/ edur kast skie leingur/ Mun
þa ecke rædlegt ad taka til ad hugsa
nøckud fram̄ j veigen vm Velferd
Sælatenar? wort Holld eykur sig j
Synduñi Daglega/ þui være Þørf
ad Anden edr jñre maduren̄ afþuæ
þær daglega med Tarum̄ Jdranar
en̄ᵛ. Þau Jdrunᵛ Tær fa sin̄ Kra
pt j Blodenu christi. Christr er þar
vppa daenn/ ad syndenn skyllde i oss
deya/skylldu̅ vier þa vilia leyfa hn̄e
ad lifa j vorum Hiørtum̄/ huørre ad
Christr so alvarlega villde fyrerm̄u
na/ad lifa j oss / ad han̄ vtgaf þar
til sitt eiged Lyf j Daudan? Guds
Sønur geingur ecke jn̄ j þess Mans
Hiarta med Nadene/ þar sem Johñ
es hefur ecke adr tilbwed hønu̅ veg
med

mz jdiūeñe/Gud deyd' fyrst mz ang
re z Trega/so hañ sijdan lyfge med
Huggun Heilags Anda. Hañ leider
fyrst til Helvȳtis/med tilfiñingu til
Guds Reide/so hñ leide aptr þadan
mz Sætleiks smeck Gudlegrar Nœd
ar Giœsku.

Esaias Spamadur heyrde j siñe
Vitrā fyrst kōa eiñ myken z sterkā
stormvind/ s vm koll kastade Fiöll
unum og sundurmolade Biörgen og
steinana/z epter þañ stormvind/stor
añ Jardskialfta/z epter Jardskialf
tā sa hñ miken Elld/eñ vm sijd' fñ
hñ ad kom eirn hægr z miukr Vind
blær. þ Vindblæ þñañ m' kest Gudz
æstar Ilur/til huørs Mñeskiañ kñ
ecke ad fiña/ vtan ædur hafe vndan
fared/Ogn/Skielfing/ z sart sund
ande Samvitska vegna Syndareñ
ar Þeckingar/ Þui sa sem huggast
sko!

skal/hann verdur ædur ad vera orden hryggur. Sa s sedast skal/hann verdur ædur ad vera hūgradur. Gud læknar einskis þess Sar sem ecke kann ast vid þau/z lætur sier þikia Raun ad þeim/Gud skyler ecke Syndønum vtan þu þær ædr vidurkienner/z dragi er af þeim skyluna/ Nann fyrergiefur ecke þa Synd/s þu villt eige med kienna fyrer Synd/ Nann giører þig ecke Riettlætann/ vtan þu vidurkienner z þecker þig ædr Ranglætann/hūn huggar þig ecke/ vtann þu finner j hia sialfum þier engua huggū. Sod dan rietta og sanna Jdran/ virdstu goode Gud med þijnū heilaga Anda ad vpvekia j oss z vorū hiortū/ Am

# IV
## Vm þad sæta Jesu Nafn.

Þu goode IEsu/ vertu mier IEsus/ þ er frelsun z Hialp minnar Sælar/ z myskuna mi er/ þu s̄ hefur þitt Nafn af frelsun z myskū. Þo mitt Lyferne fordæme mig/ þa sāt mū Nafned þitt/IESV giøra mig Sæluholpen. Fyrer þta þitt sæta Nafn bid eg þu giører vid mig/ ept' þui s̄ þitt sæta nafn hlio dar/þad er ad þu frelser mig z hialp er fra Fordæminguñe. Med þui þu ert sa samne z millde hialpar Mañ þa muntu og eirnen þa til Nædar taka/ sem snarlega hafa myklar og storar Synder drygt.

Myskuna þu mier gode Jesu/ æ medā Myskunar Tijmen yfer stendz/ so eg verde ecke af þier fordæmdz sei ña meir/ Þegar Nædar Tijmen er vte/ z Tijme Domsins z Riettlæte sins tekur til. Þott þu taker mig j ñi

Fang

Fang og Skaut þinnar Myſkun ar/ þa verdur þar eins myked Rwm handa ødrū epter ſem ædur/ ſo eingē þarf þadan fyrer mig vte ad lykiaſt Þo þu gode Jeſu giefer mier Mol ana/ af þinne Giæſku og Miyſkun/ þa mun eingen Þurd a henne ſiaſt ſamt ſem ædur.

Þu ert mıña vegna fæddur/ Min na vegna vnſkoren/ Mıña vegna er tu og eirnen Jeſus orden/ þad er/ vor hialpare z frelſare. O huad ſætt z hiartanlega gledelegt er þetta Naf ned? Huad er Jeſus aňad eň Sælu hialpare? Huad kann þa þeim Sæ luholpnu ad bera til meina? Huad er þad aňad ſem vier kuñum ad girn aſt oſka oſſ edr vænta auk Sæluhial parennar? Takktu mig Drottenn Je ſu jnn j Tølu þiña elſkulegra Bar na/ ſo eg kunne aſamt med þeim ad

 loſa

losa z dyrka þitt heilaga Lijfkropt uga Nafn. Þott eg hafe firt mig mijnu Riettlæte/sem þu hafder mier giefed j vpphafe/þa hef eg ecke kuñ ad/ad sneida þig þiñe Myskunseme sem huorke hefur vp̃haf nie Enda. So hægt sīn mier hefz vered/ad stey pa mier j Fyrerdæmingu z Dauda/ So hægt er þier ad frelsa mig.

Minn Gud og Drottenn/giæt ei so freckt ad mijnum Misgiørdum/ ad þu gleymer þinne Myskunseme. Lat ecke so mijked rijda mijnar Syn der/ad þær kuñe vpp ad vega þijna forþienustu/og synast þyngre eñ hū j Metaskalū þijns Riettlætis. Sia þu ecke so grant epter minne Ill sku/ad þu gleymer þiñe giæsku/ Min stu ecke þiñar Reide vid mig sekan/ helldz minstu þiñar Myskunsemdar vid mig auman/ Þu sem mier hefur

giefed þad Hiartalag/ad eg kuñe ad læta mig langa til þijn af Hug og Hiarta, Muntu nockud vegna þinn ar Hiartagiæsku gieta þa faled þig þ þessare minne Hiartans Girnd og epterlangan? Þu hefur fram̃ fyr er mig sett miñ overdugleika z synd er mz huørium eg hef mz riettu for þienad eilijfa fyrerdæming. Muntu nu geta byrgt þ miñᵛ Sælar Augū þijna forþienu:stu og þitt fyrerheit miᵛ vtgiefed vm þ eilijfa lijfed? mitt Mælefne kiemz ad sœku vndᵛ dom a Himnenum/Eñ þad gledz mig ad j þeirre Himnesku Rædstofunne þa var þier giefed þad Nafn/s merker Frelse z Lausn/Þuiad af Himnum ofañ kom Eingellen mz þad signada JESV Nafn til Mariu Meyar.

O þu allra myskunsamaste Jesu Huørium skalltu vera Jesus(þad er

Frelſare). Ef þu ſkyllder ecke vera þeim aumu Syndørum JEſus/ ſem leita ſier Nꜳdar z Hialpar hia þier einum? Þeir ſem treyſta vppa ſitt eiged Riettlæte/ þeir leita Frelſis z Sꜳluhialpar hia ſialfum ſier.

Eñ med þui eg fiñ pad eckert j hia mier/ med huøriu eg kuñe ad ha fa forþienad Eilijft Lyf/. Þa fly eg til þijn þu gode Frelſare/ og hial par Mañ. Hølpen giør þu mig ſiñ fram̃ fyrer þig kiem fordæmdur. Myſkuna mier ſ til þijn kiem Syn dønum hladen. Giør mig Riettlꜳt ann ſem til þijn kiem Orietflꜳtur. Gief mier Sigur j mijnu Mꜳle ſem er þunglega ꜳklagadur.

Þu Drotten ert Sañleikuren z þui er þitt Nafn j ſañleika/ pad hid ſa ma ſem pad þyder/ Þar fyrer lꜳttu pad og eirnen ſañaſt a mier. Vertu

mier

mier og eirneigen Jesus/ þad er Sæluhialpare og Heilsugiafare. Vertu mier Jesus j þessu Lijfe. Vertu mi' Jesus a Daudastundune. Vertu mier JEsus a þm ydsta Dome. Vertu mier JEsus j þui eilijfa Lijfe. Aan efa muntu mier a øllum þessum Tijmum/ Jesus/ þad er Frelsare ꝛ Hialpare reynast/ Þuiad so s̃ þu ert ovmbreytanlegꝛ j þinne Veru So ertu ovmbreytanlegur og alltijd hinn same j þinne Myskunseme. Ecke mũtu mijns eins vegna/ þo eg sie aumur Syndare/ vmbreyta þijnu Nafne / Helldur muntu og so vera mier/ JEsus/ Frelsare/ þui þu vtrek ur øngvann þann fra þier sem til þijn kiemur/ Þu sem mier hefur giefed þad sinne/ ad vilia koma til þijn Þu munt og eirnen þad veita/ ad þa eg kiem/ þa verd eg eirnen ꝛ mediek

 enn

ken/ z ecke wiskwfadur/ þuiad þŷn Ord eru Lŷf og Sañleike. Þar fyr er/ þott ad Upprũna Synden(Nu ørta eg hefe j Nattturuñe og med Natturuñe erfdt/epter mĳna fyrstu Foreldra)hun fordæme mig// Þa er tu þo samt miñ Jesus/sem mig fra heñe frelsar. Þott minn syndsamle gur Gietnadur fordæme mig/ Þa er tu þo samt minn Jesus. Þott mĳn saurug og Syndum spillta Fæding sem er Bølvan Løgmalsins vnder orpen/ hun fordæme mig/ Þa ertu þo samt minn Saluhialpare edur IESVS. Þott Synder mĳns Vng doms fordæme mig/ Þa ertu þo sãt miñ Jesus. Þott allt mitt Framfer de sem hefur vered saurgad og fleck ad alla mĳna Lŷfdaga/med hrædele gum Glæpum og stor Syndum/ þad fordæme mig/Þa ertu samt z blŷfur

miñ

minn Jesus. Þott Dauden/huør ad er forþient Laun miña Saka z. syn da/hann fordæme mig / Samt ertu miñ Jesus. J hia mier er Synd/O verdugleike z Fordæming/Enn j þiñ nu Nafne er Riettlætingen Vtval ningen og Sæluhialpen. J þiñu Nafne er eg skyrdur. A þitt Nafn trwe eg. J þiñu Nafne vil eg deya J þiñu nafne vil eg vpprysa. J þiñ nu Nafne fyrer Domen koma.

J þessu Nafne eru oss aller good er Hluter til reidu/og j þui jnnluckt er/so sem j einum ryktuglegasta Fie siod. Þessum Fiesiod kañ eckert añ ad ad sooa edur eyda/eñ alleina miñ eigen Vantru. Enn ad þad meige ecke skie/Þess bid eg þig miñ Endr lausnare/fyrer þetta hid sama þitt Nafn/vppa þad/ad eg ecke af miñ um stalfskaparvñtum/ og Vantrw/

 þortap

fortapest/ huørn þu villt med þirne Dyrmætu Forþienustu/ z med þijnu heilsusamlega z Lijfkrøptuga Nafne Hoolpen giøra/ AMEN.

# V

## Huornen Madur skal j Andlætenu styrkia og hughreysta sijna Tru/ vt aþ jhugan þeirrar elsku sem Herran Christur heþur synt Mann legu Kyne/þar hañ þolde Dauda og Kuøl þyrer þær

SJea huad stooran Orietf eg giøre þiñe heiløgu Þijnu ꝫ þu hefr ꝥ mig lided O Herra JEsu/Þar mitt Hiarta hryggest / z mijn Sæl angrast þar af/ad hun hefr einge sijn eigẽ Verk edr forþienustu ꝥ sig ad bera/Langt um meir atte mijnu Hiarta og Sælu ad vera vmhugad vm þijna helg ustu

ustu Þijnu/þuiad þijn Þijna er þad
goda Verked sem eg ma alleina fyr
er mig bera/z þijn hlydne alleinasta
er mijn forþienusta. Drott giøre eg
þa þinne særu Þijnu / Ef eg leit
ade vid ad setia vppa hana Boot/
og Lappa minna godra Verka/þar
þo þijn Þijna z hennar forþienusta
hefur øngvan Brest/enn Lapp" minn
ar eigen forþienustu eru lioter z til
einkis fyrer þijnu Auglite.

Ef eg finnde mig j sialfum mier
Riettferdugan/Til huørs ætte mier
þa þitt Riettlæte ? Edur huar til
skyllde eg þa þitt Riettlæte so frek
lega girnast/ Vilie eg stoola vpp æ
Løgmalsins Verk þau sem eg kann
ad giøra/Þa verd eg vtaf Løgmal
sins Alycktan fordæmdur? Enn Gu
de sie Lof sem mier kieker þ ad þeck
ia/ ad eg er ecke vnder Løgmalenu/
helld

helldur vnder Nadenne. Eg hefe lifad ogudlega / z syndgast j Himenen z fyrer þier. O þu allra heilagaste Herra z Fader/so eg er nu ecke verdugur ad kallast þinn Sonur. Samt bid eg þu virdest ad kalla mig þinn Þræl. Lát mig ecke gánga amis vid þijna Þijnu/ nie heñar heilsusamlegasta Avaxtar syniad verda Lát ecke þitt hid allra helgasta wthellta Blod verda so ofrøptugt ad þ giete ecke fært þñ Avøxt hia mier ad mijn Sæla ȯde j þui sæluholpe. Sÿndern^r hafa alltijd hingad til lif ad j mijnu hollde. Lattu þær nu lokfins meiga þ mitt Andlát vtaf deya mitt Hollð hefur allt hingad til haft Yferrad yfer mijnum Anda/lát nu þ^r fyrer Andan um sijder meiga yferhønd hafa/z Sigur viña a holldenu. Lát þañ ytra Mañen forrot na/

na/ z verda Orma z Madka Fædu so sa jñre kunne ad verda vpphafen til Dyrdareñar: Eg hefe allt hing ad til hlydt Diøfulsins Aeggian/ z illum Innblæstre/ Eñ giefdu nu Drotten mier/ ad sa skadlege Ovin meige nu loksins vndertroden verda vnder mijnum Fotum. Eg veit Diøfullen forsomar sig nu ecke/ Og ad hañ er nu nalægur/ og aklagar mig nu þ þier/ eñ hñ hefr eckert mz mig ad giøra. Daudans ognarleg asynd skielfer mig/ eñ þad hughreyster mig þᵉ a mot/ ad Daude þsse mũe giøra enda a mijnum Synda Athøfnum/ z mũe vera so sm̃ Vpphaf z jñgang ur til eins heilags framferdis. Nu loksins hiedan af mun eg gieta fyllelega þocknast þier miñ Drotten/ ñu loksins mun eg j þui hinu Gooda so styrkur verda/ ad eg alldrei hiedan af

hneyist

hneygest nie teygest til nockrar Jll sku. Diøfull og Daude hræda mig mz mynū Syndū/eñ eg vil vysa þm til ad aklaga þañ sem vppa sig took allan miñ Vanmætt / huørn z Dr otten slo søkum miña Synda. Myn Skulld er ad søñu miøg stor/og af heñe kañ eg ecke bid minsta ad bita la/eñ sa sem j Borgun hefur fyrer mig geinged/hañ er so rykur z Giæ sku fullur/ad hñ bæde kañ z vill mig kuittañ giøra/z þui er allt mitt Tr aust a hønum alleina z a hñs Nyar ta Giæsku. Bitale sa fyrer mig sem fyrer mig hefur j Borgun gein ged/Suare sa til miña Misverka/s mijna Søk hefur ad sier teked/ Eg hefe ad søñu syndgad Drotten Gud/ og mynar Synder eru otelianlega margar/og ovmrædelega storar/ enn samt sk eg ecke vera sekur j þeirre hræde

hrædeleguſtu Synd z jllgiørd/ad eg væne þig Lyge/ edr vilie þier ei trua huør ed vottar bæde med Ordum og Verkum/ Ja og eirnen med þijnum dyra Eide/ad fylleleg Boot og Bit alingur ſie komen fyrer mijnar ſynd er. So hrædeſt eg nu ecke mijnar Synder /þui þu ert mitt Riettlæte. Eg hrædeſt ecke mijna Heimſku og Faviſku/þui þu ert miñ Vijſdoomur og Speke. Eg hrædeſt ecke Daud an/þui þu ert mitt Lijf: Eg hrædeſt engua Villu/þuiad þu ert miñ ſan leiks Vegur, Eg hrædeſt ecke For totnunena / þuiad þu ert mijn Vpp riſa/ Eg hrædeſt ecke Daudans Na rmkuæle/ þui þu ert mijn Hiartans Glede z gledfroe. Eg hrædeſt ecke þañ ſtranga z ſijdaſta Dom/ þuiad þu ert mitt Riettlæte. Lattu vtfliota og renna / til minnar þyſtrar z vpp
þorn

